ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!



# VERKALÝÐSBLAÐIÐ



MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (MARX-LENINISTA)

1.ÁRG 7.TBL. 1975

## Kjaramálaráðstefna ASÍ

# ASÍ-forystan dansar eftir pípu auðvaldsins

Kjaramálaráðstefna ASÍ var haldin í byrjun desember og mótaði hún stefnuna fyrir komandi samninga. Stefnan er í sömu átt og verið hefur lengi, með atvinnurekendum og ríki, en andstæð þörfum vinnandi fólks.




Ekki eru settar fram neinar ákveðnar kjarakröfur, heldur lögð áhersla á, "að ráðast gegn rótum verðbólgunnar" í samvinnu við ríkisvaldið og atvinnurekendur. Snorri Jónsson segir ta.m.: "Við núverandi aðstæður virðist það hins vegar betri kostur að freista þess að ná samkomulagi sem fæli í sér samræmdar aðgerðir til að draga úr verðbólgunni og tryggja aukinn kaupmátt. Kauphækkunin ásamt hliðaraðgerðum virðist raunhæfari lausn, en kauphækkunin einsömul án annarra aðgerða". Það er ljóst, að nú á að leika sama leikinn og síðastliðinn vetur, þ.e.a.s. koma með málamyndakauphækkun og samþykkja síðan að meta hliðarráðstafanir sem ákveðna kjarabót. Skattabreytingar til hagsbóta alþýðu og loforð um að halda óbreyttu búvöruverði hafa ekkert reynst nema svik og tál. Allt tal ASÍ forystunnar er miðað við það sem hún kallar erfiðan hag þjóðarbúsins, þ.e.a.s. atvinnurekenda og ríkisvalds, en þessi erfiði hagur er reyndar allur reiknaður eftir skattaskýrslum atvinnurekenda sjálfra. Hún talar minna um erfiðan hag alþýðuheimila og ekki er minnst á að það verði að vinna upp kauprán síðastliðinna tveggja ára. Það verða ekki aðrar ályktanir dregnar, en hún hafi lagt blessun sína yfir þær. Á verðtryggingu launa er ekkert minnst.

Framhald á bls. 3.

INNI Í BLAÐINU:



# Er munur á EIK(m-l) og KSML ?

KSML segja EIK(m-l) vera marx-lenínísk samtök - en stundum þó "nýtísku endurskoðunarsinna", sem "falsa marx-lenínismann" o.fl. EIK(m-l) segja KSML ekki vera marx-lenínísk samtök - stundum "vinstri"róttæklinga. Eru þetta orðaleikir og þýðingarlaust karp?

### VARÐANDI KSML

1) KSML voru ekki marx-lenínísk samtök í upphafi. T.d. var afstaðan til heimsvaldastefnunnar og þriðja heimsins röng og gagnbyltingarsinnuð. Afstaðan til samfylkinga (eitt af þrem skilyrðum fyrir sigri byltingar) var röng í grundvallaratriðum og gagnbyltingarsinnuð. Ástæðan fyrir þessu var m.a. röng afstaða til stéttanna.

2) Samtökin voru klofnings- og einangrunarklíka (sbr. afstöðu KSML til fyrrv. bræðrasamtaka KFML(r) í Svíþjóð) með alranga baráttustefnu.

3) KSML hafa breytt um afstöðu í stefnuskrá og baráttuatriðum, einu eftir öðru, en án samantengds heildaruppgjörs - án þess að taka heildarafstöðu gegn fyrri tíma, heldur segjast samtökin ávallt hafa verið marx-lenínísk.

4) KSML hefur ekki boðið EIK(m-l) aðild að öllum samfylkingum er KSML hefur beitt sér fyrir (m.a. Rauð æska), né heldur svarað öllum samfylkingartilboðum EIK(m-l). Af þessu drögum við þær ályktanir að afstaða EIK(m-l) sé réttmæt. Hins vegar er rétt að marx-lenínismi hefur fest rætur meðal félaga KSML og vex nú fiskur um hrygg. Það sést m.a. á ýmsum afstöðubreytingum samtakanna. En innan samtaka eigast ávallt við

FRAMHALD Á BLS. 8.



# VERKALÝÐSBLAÐIÐ
## málgagn EIK(m-l)



RITSTJ. OG ÁB.M.:ALBERT EINARSSON


LEIÐARI

# UM SVIK VERKALÝÐSFORYSTUNNAR OG NAUÐSYN KOMMÚNÍSKS FLOKKS

S.l.mánaðarmót voru 45 ár liðin frá stofnun Kommúnistaflokks Íslands(KFÍ). Þess var minnst með sameiginlegum baráttufundi EIK(m-l) og KSML á Akureyri og í Reykjavík. Þrátt fyrir ágreining um ýmiss grundvallaratriði hafa þessi samtök lýst yfir samvinnuvilja,reynt samvinnu í verki og stefna fullum fetum að flokksstofnun - en hvor í sínu lagi,enn sem komið er. Fundirnir voru þó merki einingarstarfs samtakanna.

## LÆRUM AF SÖGUNNI

45 ár er langur tími.KFÍ starfaði aðeins í 8 ár.Saga hans var saga baráttu og reisnar.En hin 38 árin eru óslitin saga hnignunar og útvötnunar verkalýðs- og alþýðubaráttunnar,þar til nú síðustu árin að nýjar raddir heyrast. Í öllum aðalatriðum átti starf og barátta KFÍ sér réttan farveg.Flokkurinn byggðist á marxismanum og lenínismanum,tók öflugan þátt í dægurbaráttu vinnandi fólks og stefndi að verkalýðsbyltingu og nýrri ríkisskipan verkalýðs í bandalagi við vinnandi alþýðu. Hann varð að nokkru til í baráttu við stéttasamvinnuna og innantóma þingræðishyggju Alþýðuflokksins og kratabrodda verkalýðshreyfingarinnar. Með fjöldastefnu sinni og eflingu eigin daglegrar baráttu vinnandi alþýðu sinnti flokkurinn því hlutverki að búa fjöldan undir pólitísk stórátök og uppbyggingu sósíalismans.Samtímis var reynt að skipuleggja og fræða framsæknasta hluta verkalýðsins um grundvallaratriði kommúnismans og búa hann undir forystuhlutverk í uppbyggingunni.

Sigrar KFÍ voru margir. Þrátt fyrir harða kreppu vann verkalýðurinn og vinnandi alþýða á afturhaldinu og auðvaldinu. Það segir meira um KFÍ en lofgerðarrollur Alþýðubandalagsforystunnar,sem reynir að nota sögu KFÍ sem skálkaskjól og andlitsfarða - fá fólk til að trúa að "sósíalismi" AB sé byggður á bestu arfleifð KFÍ.

Marx-lenínistar og margt vinnandi fólk notar hins vegar söguna sem keyri á stéttasamvinnupáfana. Við sjáum að Alþýðubandalagið fetar dyggilega í fótspor Alþýðuflokksins. Í harðnandi kreppu boðar það sömu stéttasamvinnu og sáttfýsi við auðvald og ríki svo bjarga megi grundvelli borgaraflokkanna - nefnilega auðvaldsskipulaginu og bitlingajötu forystunnar.

Saga KFÍ kennir okkur hvað beri að gera og hvaða baráttustefnu á að setja gegn kratabroddunum. Sagan kennir okkur nauðsyn hins kommúníska flokks. Lærum af sögunni!

## HNIGNUNIN

KFÍ var lagður niður 1938 og marxisminn endurskoðaður í samræmi við þarfir kratismans,sem þá hafði sigrað. Okkur ber að muna að barátta milli alþýðusinnaðrar stefnu og borgaralegrar er óhjákvæmileg í kommúnískum samtökum eða flokki - hún endurspeglar stéttabaráttuna. KFÍ var engin undantekning og voru kommúnistarnir ekki fræðilega í stakkinn búnir til að sigra hægri hentistefnuna og beittu þeir röngum aðferðum í baráttunni.Þeir virkjuðu ekki fjöldann til baráttu gegn hentistefnunni. Því fór sem fór.

Eftir stofnun Sósíalistaflokksins tók við samfelld hnignun og"marxisminn" var gerður að réttlætingu fyrir þingræðisbrölti og á eyðileggingu baráttustefnunnar. Flokkurinn ávann sér stöðu í ríkiskerfinu,í verkalýðshreyfingunni og fitnar nú, undir nafninu Alþýðubandalag,á samvinnu við stéttarandstæðinginn.Við verðum að skoða fíkni í ráðherrastóla,áróður um aukinn atvinnurekstur borgaralega ríkisins og allt hjalið um "tillit til greiðslugetu þjóðarbúsins","verðbólgu innan ákveðins ramma", breytta og takmarkaðari vinnulöggjöf,"lýðræðissósíalisma" verkalýðsforingjanna,sem svik við verkalýð og vinnandi alþýðu. Þessi stefna og barátta AB-forystunnar gegn kommúnismanum er þáttur í stundarsigri endurskoðunarstefnunnar með bakhjarl í síðbúnu auðvaldi Sovétríkjanna.Um leið er hún hornsteinn stórauðvaldsins og yfirdrottnunarstefnu þess.Því er Alþýðubandalagið hjálparhella auðvaldsins - borgaralegur flokkur sem verður að berjast gegn.



Með kommúnistaflokkinn í fararbroddi slítur alþýðan af sér fjötra auðvaldsins.

EIK(m-l) tekur um leið fram að hinn almenni félagi AB ber ekki höfuðsökina,enda samvinna við þá möguleg í samfylkingum eins og dæmi sýna.

Gegn svikum verkalýðsforingjanna er aðeins eitt svar:

Barátta og eining vinnandi alþýðu undir forystu verkafólks á grundvelli stéttabaráttunnar - bygging kommúnistaflokks.

## FLOKKSSTOFNUN

Stofnun KFÍ nú verður að fela í sér sameiningu íslenskra marx-lenínista hvar sem þá er að finna.Raunverulegur kommúnistaflokkur stekkur aldrei fullskapaður fram í sviðsljósið.Fyrsta tímabil í sögu hans er tími uppbyggingar.En þó verður flokkurinn að bera til fræðlega einingu um grundvallaratriði marx-lenínismans / kenningar Mao Tsetungs frá upphafi.Um þau verða ísl. marx-lenínistar að sameinast fram að stofnun flokksi. Skipulag flokksins verður að vera á hreinu og hann ver að eiga sér baráttustefnu í mikilvægustu baráttumálum dagsins í dag,svo sem verkalýðsbaráttu,landhelgisbaráttu og afstöðu til heimsástandsins.

Allt annað væri blekking og hentistefna sem gerði flokkinn að þrætusamkundu í stað baráttuflokks.Fjöldafylgi, stærð o.fl.skiptir ekki höfuðmáli,heldur gerð pólitískrar stefnu og einingin um hana.

Þess vegna segjum við: Íslenskum marx-lenínistum ber skylda til að ná fræðilegri og skipulagslegri einingu og verða sammála um baráttulínu sem fyrst.Það gerist með heiðarlegri sjálfgagnrýni,félagslegri gagnrýni,samvinnu í baráttunni og umræðum.

Tímasetning flokksstofnunar er háð þessu og verður að vera gerð á jafnréttisgrunni allra sem að flokknum vilja standa.

Því teljum við allar tímaáætlanir einstakra aðila rangar og ekki bera vott um að stefnt sé raunverulega að einingu í ofantöldum atriðum Sameiginleg yfirlýsing marx-lenínista um sameiginlega flokksstofnun á næsta ári er eina raunhæfa trygging öllum væntanlegum félögum og stuðningsmönnum nýja KFÍ. Öll mistök eru vatn á myllu andstæðingsins.

LIFI BARÁTTAN FYRIR NÝJUM KOMMÚNISTAFLOKKI!


Arðrændir og kúgaðir allra landa sameinist!

VERKALÝÐSBLAÐIÐ

Útgefandi:
EININGARSAMTÖK KOMMÚNISTA
(Marx-Lenínistar)
póstfang: Skólastræti 3b
verð: áskrift 1975 250 kr.
1976 600 kr.
í lausasölu 50 kr.
póstgíró nr. 12200


## TIL ÁSKRIFENDA

Áskrifendur VERKALÝÐSBLAÐSINS hafa flestir fengið heimsenda með síðasta tbl. PÓSTÁVÍSUNAREYÐUBLAÐ til greiðslu á áskrift sinni.

Við hvetjum eindregið þá sem ekki hafa greitt nú þegar til að greiða áskrift hið fyrsta.

ÁSKRIFT 1975 - 250 kr.
ÁSKRIFT 1976 - 600 kr.

Fjárhagsleg undirstaða blaðsins byggir á skilvísum áskrifendum.Treystum þessa undirstöðu með því að standa skil á áskriftagjöldum.Söfnum fleiri áskrifendum.

## ÁSKORUN

VERKALÝÐSBLAÐIÐ hvetur lesendur sína til að senda blaðinu efni,gagnrýni og uppörvun.VERKALÝÐSBLAÐIÐ er ennþá lítið blað í sniðum og það verður aldrei stórt nema þú,lesandi góður, takir virkan þátt í að gera það stórt með því að efla útbreiðslu þess,færa því frásagnir af baráttu og starfi vinnandi fólks hvar sem er,á vinnustöðum,til sveita,í íbúðahverfum osfrv.

SENDIÐ EFNI:
VERKALÝÐSBLAÐIÐ
c/o Albert Einarsson
Sléttuvegur 45
Reykjavík

## NÁMSSTARF EIK(M-L)

Nám í fræðikenningu marx-lenínismans er hverjum framsæknum manni nauðsynlegt.

EIK(m-l) starfrækja námshringi í marx-lenínismanum/ kenningum Mao Tsetung. Námið er skipulagt í litlum hópum og skiftist niður á tvo hluta með 6.fundum í hverjum.

Hafið samband við EIK(m-l) á skrifstofu samtakanna: SKÓLASTRÆTI 3b.R.vík.

Skrifstofutími er:
mánudaga kl.16-17
föstudaga kl.17-19
laugardaga kl.14-16

# KOMMÚNISTAFLOKKUR STOFNUN OG EIGINDIR

KOMMÚNÍSKUR FLOKKUR - HVAÐ ER ÞAÐ? HVERNIG ER HANN STOFNAÐUR? KOMMÚNISTASAMTÖKIN - KSML HAFA NÚ AUGLÝST STOFNUN KOMMÚNISTAFLOKKS Á ÁRINU 1976. SAMTÍMIS LÝSA ÞAU YFIR, AÐ EIK(m-l) NEITI AÐ STANDA AÐ FLOKKNUM MEÐ ÞEIM - ÁN ÞESS AÐ GETA UM ÁSTÆÐUR. Í TVEIMUR PISTLUM HÉR AÐ NEÐAN ER GERÐ GREIN FYRIR AFSTÖÐU EIK(m-l) OG UM LEIÐ LEIÐRÉTT UMMÆLI KSML.

## EIGINLEIKAR KOMMÚNISTAFLOKKS:

Kommúnistar eru sammála um að kommúnískur flokkur skuli vera annað og meira en náms- og baráttusamtök sömu tegundar og EIK (m-l) og KSML. Lenín og Stalín hafa kallað flokkinn skipulagðan stjórnanda og brjóstfylkingu öreigastéttarinnar - þróaðasta samtakaform verkalýðsins. Ljóst er að flokkurinn verður því að uppfylla ákveðin skilyrði í upphafi þó svo að hann verði ekki fullskapaður við stofnun.

Í stefnuplaggi EIK(m-l). Baráttuleið alþýðunnar stendur um flokkinn:

1. Framsæknustu menn vinnandi alþýðu, fyrst og fremst verkalýðs, verða að vera í flokknum.

2. Í höfuðatriðum verður hann að sameinast um marxlenínismann/kenningar Mao Tsetungs.

3/ Hann er skipulagður eftir lýðræðislegum en um leið miðstýrðum reglum.

4/ Hann leitast við að leiða alla baráttu verkalýðs og vinnandi alþýðu og starfar innan samtaka hennar. Hann hefir pólitíska forystu í baráttunni.

5/Hann á sér baráttustefnu í öllum málum sem mikilvæg eru, ræður yfir greiningu á stéttum og aðstæðum þjóðfélagsins sem sífellt er í mótun.

Fyrsta skref að þessum mörkum er flokksstofnunin. Hún felur í sér að íslenskir marx-lenínistar verða að sameinast um fræðilegan og skipulagslegan grundvöll og baráttustefnu í öllum mikilvægustu málum dagsins. Með þessum forsendum og einungis þeim, er mögulegt að herða og efla nýjan kommúnistaflokk þar til hann verður raunverulega brjóstfylking öreiganna og baráttuflokkur er getur vakið, eflt og leitt fjöldabaráttu og þróað pólitíska vitund vinnandi fólks. Þetta eru þær þrjár meginkröfur, sem EIK(m-l) gera á hendur KSML - Vilji samtökin sameinast EIK(m-l) við flokksstofnun verða þau að viðurkenna nauðsyn þess að sameinast um þær, en ekki yfirborðslega sáttastefnu. Þörf á kommúnistaflokki er brýn. Kreppan harðnar. Stéttasamvinna kratabrodda Alþýðubandalagsins og Alþýðuflokks gerist æ djúptækari. Heimsvaldaásælni ágerist og fyrstu merki um skipulagða fasistastarfsemi sjá dagsins ljós. Svarið er: Nýr kommúnistaflokkur Íslands. Öll skilyrði eru fyrir hendi, nema sameining kommúnista í ein samtök - hvorki EIK (m-l) né KSML geta breytt sér í flokk ein sér. EIK (m-l) eru óreynd náms-og áróðurssamtök, en KSML ekki marx-lenínísk samtök (sjá annars staðar í blaðinu) - enda grundvallarágreiningur milli þeirra. Með stofnun KFÍ verður stigið eitt mikilvægasta skrefið til endurvakningar baráttu og uppgjörs við borgaralega endurskoðunarstefnu og kratisma Alþýðubandalagsins. Sú staðreynd og eiginleikar kommúnistaflokksins setja kommúnistum og stuðningsmönnum þeirra hörð, ákveðin og auðskilin skilyrði. Allir þeir sem vilja ekki uppfylla þau í verki eru hentistefnumenn og skulu sigraðir.

## STOFNUN KOMMÚNISTAFLOKKS

Með eiginleika flokksins, nauðsyn hérlendis og sameiningu marx-lenínista í huga er greinilega um ákveðnar forsendur flokksstofnunar að ræða.

a/ EININGIN ER FORSENDA:
Í fræðilegum málum greinir KSML og EIK(m-l) t.a.m. á um stéttgreiningu, afstöðuna til vísvitaðrar og sjálfsprottinnar baráttu (sbr. samfylkingar í kjaramálum) og sjálfsákvörðunarréttar þjóða. Í skipulagsmálum er ágreiningur óljós. Í baráttumálum er ágreiningur víða t.d. varðandi kjarakröfur, fiskveiðideilna o.fl.

b/ SAMVINNA ER FORSENDA:
Samvinna er nokkur fyrir hendi í einstöku baráttumálum og fer vaxandi, en er ekki enn tengd fræðilegri umræðu. Samvinnan er ein leiðin til lausnar

e/ SJÁLFSGAGNRÝNI ER FORSENDA:ÞAÐ ÞÝÐIR:
Endanlegt uppgjör KSML við alranga baráttustefnu í öllum málum og að okkar mati við grundvallaratriði marx-lenínismans (sjá grein um KSML í blaðinu)- þ.e nýr stefnu-og baráttugrundvöllur. Leiðrétting EIK(m-l) á minniháttar villum.(Sjá grein um KSML)

Á þessum forsendum skal ákveða tímasetningu flokksstofnunar. KSML ákvað einhliða flokksstofnun tiltekin dag á árinu og bauð EIK(m-l) aðild. KSML telur þetta markvissari og árangurstryggara en sameiginlega yfirlýsingu um flokksstofnun samtakana. Samtímis setja þeir ekki upp skilyrðin þrjú um fræðilega , skipulagslega og stefnulega einingu, þeir ætla sér ekki að birta nýjan grundvöll KSML fyrr en sem stofnskrá KFÍ (með EIK (m-l)) og þeir setja einingu, samvinnu og sjálfsgagnrýni tímaskorður, þannig að "gullinn meðalvegur" gildir ef skilyrðunum þremur er ófullnægt. Af þessum orsökum taldi EIK(m-l) tímasetningu ranga og hefur nú endurbætt afstöðu sína með því að krefjast algjörs jafnréttisgrundvallar á við KSML í öllum málum flokksstofnunar.
En án árangurs.
EIK(m-l) hefur því aldrei neitað flokksstofnun og aldrei afneitað hlutverki ~~flikksins~~ - heldur neitað kolröngum skilyrðum á ofangreindum forsendum.
Okkur er ekkert um gagnstæðar fullyrðingar KSML gefið
Spurningin er: Samþykkir KSML ofangreindar forsendur, skilyrðin þrjú og jafnréttiskröfur EIK(m-l) eða ekki?

## Ráðstefna ASÍ - - - frh af bls 1

Abl.-forystan hefur sem fyrr lýst yfir stuðningi við samþykktir ASÍ-forystunnar. En hverjir ættu höfuðkröfurnar að vera ?

1. 95.000 kr lágmarkslaun, sem þýðir að sami kaupmáttur náist og eftir samningana í febrúar 1974 jafnframt því, sem tveir lægstu taxtarnir yrðu felldir niður (3.og 4.taxti Dagsbrúnar og taxtar annarra stéttarfélaga samsvarandi þeim.

2. Full verðtrygging launa og hún reiknist mánaðarlega.

Reynslan hefir sýnt, að vísitölubinding er hemill á verðbólguna. Verðbólgan hefur t.a.m. verið mun meiri það tímabil sem liðið er síðan vísitölubindingin var tekin úr sambandi, heldur en næstu ár þar á undan. Jafnframt þessu verður að berjast gegn því, að samningsnefnd ASÍ fái samningsumboð í hendur, heldur hafi hin einstöku félög samningsréttinn.

## ......SVR. frh.af bls.10

kaupa sér einkabíl og Geirar og Gunnarar hafa beinan hagnað að því.
Á hverjum bitnað svo þetta fyrirkomulag ? Fyrst og fremst á verkafólki, skólanemum, gamalmennum og öðrum lítilsmegandi í þjóðfélaginu, því það eru fyrst og fremstir þessir hópar sem nýta sér þjónustu S.V.R. Eina leiðin til að breyta þessum ófögnuði er að hagsmunasamtök fólksins, stétta- og verkalýðsfélög ásamt vagnstjórum S.V.R. taki málin í sínar hendur og knýi fram breytingar á samgöngukerfi Reykjavíkurborgar.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ skorar á vagnstjóra að hefja skipulega baráttu fyrir hagsmunamálum sínum innan S.V.R. gegn ofríki íhaldsins í stjórn Reykjavíkurborgar.

## Um stéttgreiningu EIK(m-l) frh.af bls.5

skilningi að vinna þess eykur auðmagn auðherrans, jafnvel þótt hér sé ekki um að ræða framleiðslu gildisauka.Það sem einkennir auðvaldsframleiðsluna er sköpun auðmagns,ríkidæmis, Framleiðsla gildisauka er aðeins ein þeirra aðferða og sú mikilvægasta,sem auðvaldið notar til auðmagnssköpunar.
Hvað laun snertir þá eru þau ákveðin á sama hátt og annarra öreiga,þ.e.að launin samsvara því sem þarf til framfæris og endurnýjunar þeirra og vinnuaflsins.
Öreigastéttin er ekki ein samstæð heild,heldur skiftist hún í hópa eftir afstöðunni til framleiðslutækjanna og félagslegri stöðu í samfélaginu.

Verkalýðurinn er sá hluti öreigastéttarinnar sem myndar kjarna hennar,þar sem hann er bæði sá hluti sem er a)mest undirokaður, b)heldur um lykilinn að auðvaldsframleiðslunni, c)er búinn mestri baráttureynslu og d)býr og starfar mest samþjappaður.
Þjónustufólkið,sem greinist, í marga hópa,býr yfir mismiklu af eigindum verkalýðsins og er þannig misjafnlega byltingarsinnað.
En stéttaleg staða þess er augljós.Það tilheyrir öreigastéttinni og hefur alla sömu hagsmuni af hinni sósíalísku byltingu og öreigarnir.

# NÁM OG STARF STÉTTGREININGIN

Skipting þjóðfélagsins í stéttir er gerð í þeim tilgangi að stjórnlist og baráttuaðferð kommúnista og vinnandi alþýðu undir forystu verkalýðs hafi við góð rök að styðjast. Hún er ekki skrifborðsvinna, nema að litlu leyti, heldur fyrst og fremt unnin úr baráttureynslu okkar og almennri fræðikenningu marx-lenínismans. Enginn marxisti gerir stéttgreiningu handa marxistum annarra landa til eftirbreytni. Góð stéttgreining felst ávallt í því að beita marx-lenínismanum á innlendar aðstæður fyrst og fremst. Rannsaka, greina og skilja að í hópa. Skilyrðin eru þessi:

1. Afstaða fólks til framleiðslutækja.
2. Hlutverk þess í skipulagningu vinnunnar.
3. Aðferð við að taka til sín hluta samfélagsverðmæta.
4. Stærð þessa hluta.

Kínverskir kommúnistar voru trúir fræðikenningu marx-lenínista og fjöldanum. Þeir yfirfærðu ekki vélrænt stéttgreiningu samherja sinna erlendis, heldur gerðu sína eigin. Leiðtogi Kommúnistaflokks Kína, Mao Tsetung, þjappaði reynslu og þekkingu þeirra í stéttgreiningu, sem varð ein undirstaðan undir sigri kínverskrar alþýðu í byltingarstríðinu í Kína.
Hér fer á eftir hluti greinar Mao Tsetung, þar sem hann gerir grein fyrir stéttum kínverska hálf-lénsveldisins og afstöðu þeirra til byltingarhreyfingarinnar.
Hún er rituð í baráttu gegn hægri og vinstri hentistefnu.
Sú fyrrnefnda einblíndi á smáborgara og gleymdi verkalýðnum. Sú síðarnefnda einblíndi á verkalýðinn.
Greinin er lærdómsrík og sýnir hvernig marxisma er beitt sem aðferð í baráttunni, en ekki kreddu.

MAO TSETUNG

## STÉTTGREINING Á KÍNVERSKU ÞJÓÐFÉLAGI (úrdráttur) mars 1926

Hverjir eru vinir vorir og hverjir eru fjendur vorir? Þetta er ein mikilvægasta spurningin í sambandi við byltinguna. Undirrót þess, að öll fyrri byltingarbarátta í Kína náði svo litlum árangri var sú, að henni tókst ekki að sameina hina raunverulegu vini til þess að ráðast gegn raunverulegum óvinum. Byltingarflokkur er leiðsögusveit fjöldans og engin bylting hefir nokkru sinni heppnast ef byltingarflokkurinn leiðir hana afvega.
Vér verðum að gæta þess að sameina raunverulega vini vora til þess að ráðast gegn raunverulegum óvinum til að tryggja að vér vinnum lokasigur í byltingum og leiðum ekki fjöldann afvega.
Til þess að greina milli raunverulegra vina og óvina, verðum vér að gera almenna rannsókn á efnahagslegri stöðu stéttanna í kínversku þjóðfélagi og afstöðu þeirra hverrar um sig til byltingarinnar.
Hver er staða stéttanna, hverrar um sig, í kínversku þjóðfélagi?

### Landeigendastéttin og kompradorstéttin

komprador: auðugur landeigendaaðall, sem þjónar erlendu valdi.
Í efnalega vanþróaðri hálfnýlendu á borð við Kína er landeigendastéttin og kompradorstéttin dyggur fylgisveinn alþjóðlegs auðvalds og vöxtur þeirra og framtíð er háð heimsvaldastefnunni. Stéttir þessar eru fulltrúar vanþróuðustu og afturhaldssömustu framleiðsluafstæðna í Kína og standa í vegi fyrir þróun framleiðsluaflanna. Tilvist þeirra samrýmist á engan hátt takmarki kínversku byltingarinnar. Stóra landeigenda- og kompradorstéttin tekur ávallt málstað heimsvaldastefnunnar og myndar öfgafulla andbyltingarklíku....

### Millihópar borgarastéttarinnar

Þessi stétt er fulltrúi auðvaldshátta í Kína, í borgum og úti á landsbyggðinni
Með millihóp borgarastéttarinnar er aðallega átt við þjóðlega borgara.
Þessi stétt er reikandi í afstöðunni til kínversku byltingarinnar. Henni finnst byltingin nauðsyn og hún hvetur byltingarsinnuðu hreyfinguna gegn heimsvaldastefnunni og stríðsæsingamönnum, því hún þjáist [illegible] árásum alþjóðlegs auðvalds og þrýstingi styrjaldanna. En stéttin verður tortryggin gagnvart byltingunni þegar hún sér hversu staðfastlega innlendir öreigar fylkja sér um hana og öreigar annarra landa styðja hana - byltingin ógnar þannig von þessarrar stéttar um að ná stöðu stórborgara.
Hvað snertir pólitíska stefnu vilja þessir aðilar koma á fót ríki er lúti stjórn einnar stéttar - þjóðlegu borgaranna...
....Millistéttirnar eru á hraðri leið til upplausnar, nokkrir hópar snúa sér til vinstri til að ganga í lið með byltingunni, aðrir snúa sér til hægri til að ganga í lið með gagnbyltingunni.

### Smáborgarastéttin

Í þessum flokki eru sjálfseignabændur, handiðnaðarmeistarar, lægri hópar menntafólks - stúdentar, kennarar í æðri og lægri skólum, lægri ríkisstarfsmenn, skrifstofufólk, smærri lögfræðingar og smákaupmenn.
Bæði vegna stærðar og stéttareðlis verður að veita stétt þessarri mikla athygli.
Sjálfseignarbændur og iðnmeistarar taka báðir þátt í framleiðslunni í smærri stíl.
Þó að allir hlutar stéttarinnar hafi sömu smáborgaralegu stöðu, skiptist hún í þrjá ólíka hópa.
Fyrsti hópur eru þeir, sem eiga peninga umfram það er nota þarf, þ.e.a.s. þeir, sem vinna sér inn með andlegri eða líkamlegri vinnu meir á hverju ári en þarf til lífsframfæris.....
Þar eð þeir standa nærri millihóp borgara hvað snertir efnalega stöðu, leggja þeir mikinn trúnað á áróður hans og eru tortryggnir í garð byltingarinnar.
Hópur þessi er minnihlutahópur innan stéttarinnar og myndar hægri arm hennar.
Annar hópur eru þeir, sem bjargast fjárhagslega í aðalatriðum. Hann er mjög frábrugðinn þeim fyrsta.
......Honum finnst hann ekki geta unnið sér inn nóg til lífsframfæris með svipaðri vinnu og áður.
Til að ná endum saman verða þeir að vinna hraðar, fara fyrr á fætur, hætta síðar og vinna með tvöfaldri nákvæmni miðað við áður....
Hvað snertir hreyfinguna gegn heimsvaldasinnunum og styrjaldarherrunum efast þeir mjög um framgang hennar.... þeir hika við að taka þátt í henni og vilja helst vera hlutlausir, en þeir berjast aldrei gegn byltingunni. Þessi hópur er afar fjölmennur og tekur yfir u.þ.b. helming smáborgarastéttarinnar.
Þriðji hópurinn tekur yfir þá, sem búa við versnandi lífskjör...
Þeim líður afar illa vegna þess að mikill munur er á fortíð þeirra og framtíð. Þetta fólk er byltingarhreyfingunni afar mikilvægt. Það er ekki svo lítill fjöldi og myndar vinstri arm smáborgarastéttarinnar.
Við venjulegar aðstæður myndu hóparnir þrír taka mismunandi afstöðu til byltingarinnar. En á stríðstímum, þ.e.a.s. þegar alda byltingarinnar rís hátt og sigur er í nánd, mun ekki aðeins vinstri armur smáborgarastéttarinnar fylkja sér um byltinguna, heldur mun millihópurinn einnig fylkja sér um hana.
Meir að segja fólk úr hægri arminum, sem er hrifið með hinni miklu byltingaröldu öreigastéttarinnar og frá vinstri armi smáborgaranna, mun slást í för með byltingarmönnum....

Hálföreigar

Þeir, sem hér nefnast hálföreigar, mynda alls fimm flokka:

1) Þorri hálfsjálfstæðra bænda
2) fátæku bændurnir
3) minni háttar handiðnaðarmenn
4) Þorri búðarþjóna
5) Götusalar.....

Lang stærsti hluti hálfsjálfstæðra bænda mynduðu ásamt fátækari bændum mjög stóran hluta fjöldans til sveita. Bændavandamálið er í aðalatriðum þeirra vandamál.....
Til hálföreiga teljum við einnig minniháttar handiðnaðarmenn. Réttilega eiga þeir sjálfir frumstæð framleiðslutæki og teljast til hinna "frjálsu starfa", en þeir eru samt sem áður oft neyddir til að selja vinnuafl sitt, - efnahagslegri stöðu þeirra er hægt með sanni að líkja við stöðu fátæku bændanna. Vegna hinnar þungu framfærslubyrðar og hyldýpisins á milli tekna þeirra og framfærslukostnaðar finna þeir stöðugt fyrir þunga fátæktarinnar og óttanum um að verða atvinnulausir - einnig í þessu minna þeir á fátæku bændurna.
Búðaafgreiðslufólkið starfar í búðum og vöruhúsum og það framfleytir fjölskyldum sínum á litlum launum. Það fær launahækkun e.t.v. einu sinni á margra ára fresti á meðan vöruverðið hækkar árlega. Þess vegna kvartar það stöðugt yfir hlutskifti sínu. Það er í grófum dráttum í sömu stöðu og fátæku bændurnir og smá handiðnaðarmennirnir efnahagslega og það er mjög mótækilegt fyrir byltingarsinnuðum áróðri.

FRAMHALD BLS. 5

# Um stèttgreiningu EIK(m-l)

Umræður um stéttgreiningu hafa farið fram meðal félaga EIK(m-l) í sumar og haust. Þessar umræður hafa staðfest að sú stéttgreining, sem sett er fram í ritinu Baráttuleið alþýðunnar (BA) er í meginatriðum rétt. Þar sem um leiðréttingu er að ræða á það við um minni háttar atriði og ónákvæmni. Hér verður gerð grein fyrir því helsta.

a) Við greiningu á höfuðmóthverfunni er tilhneiging til að blanda saman stað- og tímabundnum baráttumálum öreiganna við baráttumál öreigastéttarinnar sem heildar. Þetta birtist m.a. í að "einstaka stærri auðherrar" eru taldir til varanlegra bandamanna öreiganna í baráttunni við einokunarauðvaldið. Þetta er rangt, en hitt er rétt að einstaka stærri auðherrar geta gerst bandamenn öreiganna í sérstökum afmörkuðum málum og þá þegar þeir taka þátt í baráttunni á baráttugrundvelli öreiganna, þe. þeim grundvelli, sem öreigarnir ákveða. Hér er því ekki um að ræða bandalag á grundvelli baráttuaðferðar (taktíkur) öreigastéttarinnar, heldur stað- og tímabundið bandalag gegn drottnun og yfirgangi einokunarauðvaldsins.

b) Við greiningu einokunarauðvaldsins er ekki lögð nægjanleg áhersla á hlutverk ríkisauðvaldsins og embættismannakerfis borgaralega ríkisins. Í BA segir réttilega að "Í íslenska auðvaldsþjóðfélaginu er eignarétturinn (á framleiðslutækjunum) þrennskonar,: a) einkaeignaréttur, b) kapítalískur sameignaréttur, c) ríkiseignaréttur. Þau framleiðslutæki sem formlega eru í eigu ríkisins eru raunverulega afhent skrifræðisauðvaldi til ráðstöfunar og fer það með þau eins og þau væru þeirra eigin." Þetta kemur samt sem áður ekki nógu vel fram þegar einokunarauðvaldið er greint. Til einokunarauðvaldsins telst að sjálfsögðu einnig, ásamt hinum formlegu einokunarauðherrum, t.d. í SH, Flugleiðum (einkaeign) og herrunum í SÍS (kapítalísk sameign), fulltrúar ríkiseinokunarauðvaldsins. Þessir fulltrúar eru embættismenn ýmisskonar, ýmist kosnir eða ráðnir til þess að gæta hagsmuna ríkiseinokunarinnar og til að stjórna einokunarframleiðslu ríkisins. Til þessara teljast einnig forkólfar stéttasamvinnu úr röðum verkalýðshreyfingarinnar, sem sitja langdvölum á valdastólum vegna a) undirgefni og samstöðu með einokunarauðvaldinu og ríkiseinokunarauðvaldinu, b) hins lága vitundarstigs meðal alþýðunnar um eigin stöðu og um hlutverk verkalýðshreyfingarinnar. En þetta vitundarstig er einmitt árangur af dyggilega unnu starfi stéttasamvinnuforkólfanna í þágu einokunarauðvaldsins og starfi sem þeir gegna fyrir borgun í alls konar fríðindum og bitlingum. .Þá er ekki úr vegi að nefna, a) þátt þeirra í að ráðstafa sjóðum verkalýðshreyfingarinnar til einokunarauðvaldsins á lægstu vöxtum og með bestu skilmálum, b) tengsl þeirra við auðvaldið í gegn um fjármálakerfið t.d. með aðstoð Alþýðubankans c) síaukinn þátt þeirra í skipulagningu auðvaldsframleiðslunnar, t.d. með því að beina launahækkunum inn í húsbyggingarbraskið, með því að semja um að byggðar verði svo og svo margar íbúðir fyrir byggingaauðhringi og fasteignabraskara að braska með.

Til þessara samherja og þjóna einokunarauðvaldsins teljast einnig þeir sem með oddi og egg berjast fyrir aukinni ríkiseinokun á öllum sviðum. Þar eru fremstir endurskoðunarsinnar og kratar í forystuliði Alþýðubandalagsins.

Reynslan hefur sýnt okkur að staða þeirra er ekki við hlið verkalýðs og vinnandi alþýðu, heldur mótast öll þeirra pólitík af því að berjast fyrir stjórnunaraðstöðu á einokunarframleiðslunni, þ.e. komast í ríkisstjórn, fá "sína" menn inn í embættismannakerfið og þannig fá tækifæri til að öðlast drottnunaraðstöðu með hjálp ríkiseinokunarauðvaldsins. Allir þessir aðilar eru óvinir verkalýðs og vinnandi alþýðu og gegn þeim verður að berjast með öllum tiltækum ráðum.

c) Í greiningu öreigastéttarinnar kemur fram ónákvæmni í BA. Hún er fólgin í því að ekki er gerður nægjanlega skýr greinamunur á þeim sem eru í framleiðnum störfum, þe. skapa vöru með vinnu sinni og þeim sem ekki gera það, en eiga þó ekkert til að framfleyta sér og sínum með annað en eigið vinnuafl. Greining þeirra fyrr nefndu þarfnast ekki rökstuðnings hér (sjá Ba.) þar sem hér er um að ræða verkalýðinn, framsæknasta hluta öreigastéttarinnar. Hinn hlutinn, oft kallaður þjónustufólk, skapar ekki gildisauka með vinnu sinni, en hann telst engu að síður til öreigastéttarinnar. (Hér er átt við yfirgnæfandi meirihluta þjónustufólks. Aðeins þeir eru undanskildir sem a) eru ráðnir sem stjórnendur auðmagns og gera það sem þeir sjálfir væru auðherrar, enda greidd laun samkvæmt því, b) hafa sjálfstæða stöðu, t.d ráðstafa eigin vinnu, ákveoa sjálfir störf og starfstilhögun sína (og undirmanna sinna).

Það sem einkennir þróun auðvaldsskipulagsins er sífellt aukin verkaskifting, upphleðsla á auðmagni, stærri framleiðslufyrirtæki og auðhringar. Þegar svo einokun er orðin ríkjandi er auðvaldsþjóðfélagið komið á sitt hæsta þróunarstig, með enn meiri verkaskiftingu.

Verkaskiftingin þjónar því hlutverki að auka hraða framleiðslunnar og hringrásar auðmagnsins. Við þetta sparar auðherrann bæði tíma og peninga. En einungis lítill hluti af því sem sparað er fellur í hlut þjónustufólksins, það fær á sama hátt og verkalýðurinn aðeins borgað fyrir hluta vinnu sinnar.

Þjónustufólkið framkvæmir óframleiðinstörf, sem aðrir yrðu að vinna væri það ekki til (Marx) og Marx segir ennfremur að þessi störf séu orðin félagsleg í eðli sínu í auðvaldsskipulaginu og gegni sínu nauðsynlega hlutverki í auðvaldsframleiðslunni.

Lenín skilgreinir stéttir þannig:

"Stéttir nefnum vér stóra hópa fólks, sem aðgreina má með tilliti til stöðu þeirra í hinu sögulega ákvarðaða kerfi samfélagslegrar framleiðslu (yfirleitt fastákveðið í lögum), með tilliti til hlutverks þeirra í samfélagslegu skipulagi vinnunnar, og þar af leiðandi með tilliti til þess á hvern hátt þeir öðlast þann hluta samfélagslegra gæða er þeim fellur í skaut, og einnig með tilliti til stærðar þessa hluta. Stéttir eru hópar fólks, sem einkennast af því, að einn hópurinn getur slegið eign sinni á vinnu annars, vegna hinnar mismunandi stöðu þeirra í hinu tiltekna félagslega kerfi efnahagslífsins" (Lenín: A Great Beginning, tveggja binda safn, II bindi, Moskva 1947 bls.492.)

Lenín talar um mismunandi stöðu í samfélagslegu skipulagi vinnunnar. Þjónustufólk er frábrugðið auðherrum í því að eiga ekki framleiðslutæki og verkalýð í því að vera ekki í beinum tengslum við framleiðsluna. En það gegnir samt störfum sem verkalýðurinn gegndi áður og myndi gegna ef verkaskifting og tækni væri ekki komin til sögunnar. Það leggur því fram sinn skerf til vöruframleiðslu kapítalistanna. Breyttir framleiðsluhættir hafa breytt ytri skilyrðum, þannig að sífellt fleiri þættir framleiðslunnar birtast sem aðgreind störf, en það eitt gerir ekki þá sem gegna þessum störfum að nýrri eða annarri stétt.

Það fólk sem vinnur í verslunar-, skrifstofu- eða dreifingarferlinu gegnir framleiðnum störfum í þeim

FRAMHALD Á BLS. 3

## Öreigarnir

Framhald af bls. 4.

Hinir nútíma iðnaðaröreigar eru um tvær milljónir talsins. Það er ekki margt því Kína er ennþá á eftir í þróuninni. Þessar tvær milljónir iðnaðarverkamanna eru starfandi í fimm iðnaðargreinum - járnbrautum, námum, sjóflutningum, saumaiðnaði, skipabyggingum - og stór hluti þeirra er bundinn eins og þrælar fyrirtækjum sem eru í eigu útlendra auðherra. Þrátt fyrir að öreigarnir séu ekki svo fjölmennir þá eru þeir fulltrúar hinna nýju framleiðsluafla í Kína. Þeir eru framsæknasta stéttin í nútíma Kína og eru orðnir leiðandi aflið í hinni byltingarsinnuðu hreyfingu....

Það fyrsta sem ber til að iðnverkalýðurinn hefur þessa stöðu er að hann er svo samþjappaður. Enginn annar hluti alþýðunnar er svo samþjappaður. Í öðrulagi er hin lága efnahagslega staða þeirra. Þeir hafa verið rændir öllum framleiðslutækjum og eiga ekkert eftir annað en hendur sínar tvær, þeir eiga enga von um að verða nokkru sinni ríkir og í viðbót verða þeir fyrir hinni verstu meðhöndlun heimsvaldasinnanna, stríðsherranna og borgarastéttarinnar. Þess vegna eru þeir sérstaklega góðir til baráttu. Kúlíarnir í bæjunum eru einnig afl sem kallar á athygli. Þeir eru mest [illegible] hafnarverkamenn og kerrumenn, en meðal þeirra eru einnig hreingerningarmenn og götusóparar. Þeir eiga ekkert nema sínar tvær hendur og eru eins settir efnahagslega og iðnverkalýðurinn, en þeir eru minna samþjappaðir (vinna meira einir sér en ekki í stórum hópum, eins og verksmiðjuverkalýðurinn-þýð.) og skipa minna mikilvægt hlutverk í framleiðslunni....

Við hlið þessara höfum við tiltölulega stóran hóp tötra-öreiga, sem samanstendur af bændum sem misst hafa jörð sína og handiðnaðarmenn sem enga vinnu geta fengið. Þeir lifa í mestri óvissutilveru af öllum.....

Við sjáum þegar við tökum þetta saman, að allir stríðsherrar, skrifræðismenn, kompradorstéttin og stóra landeigendastéttin sem gert hefur leynilegt bandalag við heimsvaldasinna, ásamt hinum afturhaldssama hluta menntamanna sem er háður þeim, eru fjendur okkar. Iðnverkalýðurinn er hið leiðandi afl í byltingu okkar. Allir hálf-öreigar og smáborgarastéttin eru nánustu vinir okkar. Hægri-armur hinnar óstöðugu miðstéttar getur orðið fjandi okkar - en vinstri-armurinn aftur á móti getur orðið vinur okkar. En við verðum stöðugt að vera á verði og megum ekki leyfa þeim að skapa ringulreið í röðum okkar.

Úr ræðu Chiao Kuan-Hua á 30 allsherjar þingi S.þ.



# BYLTINGARSINNUÐ UTANRÌKISPÒLITIK KÍNA

Sem kunnugt er hefur utanríkisstefna kínverska alþýðulýðveldisins vakið eftirtekt. Kalla trotskistar og ýmsir Þjóðviljamenn hana "gagnbyltingarstefnu", en marx-lenínistar hafa greint hana rétta við núverandi aðstæður í heiminum.

Sem dæmi um gerðir Kína, byggðar á hornsteinunum fimm má nefna diplómatísk samskipti við nær öll ríki, vaxtalaus lán og efnahagsaðstoð til allra ríkja 3.heimsins sem standa gegn heimsvaldastefnunni, stuðningur Kína við málstað þeirra og vinnandi alþýðu í hafréttarmálum, vopnasölu til allra ríkja sem vilja berjast gegn heimsvaldastefnu ofl.

Hornsteinar utanríkisstefnu Kína eru eftirfarandi:

1. Að skapa sambönd vináttu, gagnkvæmrar hjálpar og samvinnu við sósíalísku löndin í samræmi við alþjóðahyggju öreiganna.
2. Að styðja og aðstoða alla kúgaða alþýðu og þjóðir í byltingarbaráttu þeirra gegn heimsvaldastefnunni.
3. Að berjast fyrir friðsamlegri sambúð við lönd með ólíkt samfélagskerfi á grundvelli hinna fimm grundvallaratriða:

Gagnkvæm virðing fyrir sjálfræði og yfirráðum landsvæða.
Gagnkvæm friðarstefna.
Engin íhlutun um innanríkismál.
Jafnrétti og gagnkvæmur ávinningur.
Friðsamleg sambúð.

Með diplómatískum sigri sínum á Bandaríkjunum ruddu kínverjar úr vegi síðustu hindruninni gegn inngöngu Kína í SÞ og brottvísun fasistaríkisins Formósu.

Í SÞ hafa kínversku fulltrúarnir síðan leitt eða stutt baráttu framsækinna og and-heimsvaldasinnaðra afla.

Hér fara á eftir nokkrir úrdrættir úr ræðu formanns kínversku sendinefndarinnar hjá SÞ, Chiao Kuan-Hua, en hann er utanríkisráðherra Kína.

"Alvarleg auðvaldskreppa skekur nú mestan hluta heims. Andstæður verða eindregnari. Hreyfingin til byltingarvex meðal alþýðunnar hvarvetna í heiminum. Alþýða Asíu, Afríku og S-Ameríku sækir hraustlega á og vinnur hvern mikilvægan sigurinn á fætur öðrum í baráttunni gegn nýlendustefnu, heimsvalda- og drottnunarstefnu. Á hinn bóginn vex barátta risaveldanna tveggja um heimsyfirráð í sífellu. Allur heimurinn verður nú fyrir örum breytingum og órói ríkir. Orðagjálfur um "frið og afvopnun" felur ekki augljósan veruleikann."

"Lönd annars heimsins (þ.e. minniháttar kapítalísk lönd, aths. Verkal. bl.) auka einnig baráttu sína gegn yfirráðum risaveldanna og þeirra, moldvörpustarfsemi og ógnunum. Tilhneiging vesturevrópskra landa til einingar gegn drottnunarstefnu hefur enn aukist."

Utanríkisráðherran sýndi fram á styrjaldarhættu af völdum heimsvaldastefnunnar og afhjúpaði tal Bandaríkjanna og Sovétríkjanna um "frið og öryggi" - slíkt væri aðeins skálkaskjól til frekari vígbúnaðar og drottnunartilburða. "Valdajafnvægi" væri aðeins orðaleikur, raunverulegt ástand benti til 3.heimsstyrjaldarinnar. Síðan sagði hann:

"Við vonum að alþýða allra landa efli árvekni sína og búist undir hættu á nýrri heimsstyrjöld. Skortur undirbúnings leiðir til þjáninga.

Nú sem stendur eru þættir byltingarinnar og þættir styrjaldar í vexti á heimsmælikvarða. Það er ekki unnt að ákveða hvort styrjöld leiði til byltinga eða byltingar komi í veg fyrir styrjaldir - í báðum tilvikum mun ástand heimsmála þróast alþýðunni í hag. Og framtíð heimsins mun verða björt."

Kuan-Hua ræddi einstök mál, t.d. Kóreu, Angóla, Mið-Austurlönd o.fl., en vék svo að stöðu þriðja heimsins. Hann sagði lönd hans vilja halda sjálfstæði og möguleika til sjálfbjörgunar og brjóta niður arðránsstefnu heimsveldanna. Í stað hennar skyldi efnahagslíf skipulagt með sjálfræði, jafnræði og gagnkvæmum hagnaði. Heimsveldin hins vegar krefjast "alþjóðlegrar verkaskiptingar" og "samvinnu" milli arðrændra landa og arðræningjans eingöngu til að viðhalda hinu gamla kerfi. Hann benti á hvernig olíuframleiðsluríkin hefðu beygt heimsveldin, er svöruðu með hótunum eða kröfum um, að olíuverð væri ekki hækkað í samvinnu ríkja 3.heimsins. Utanríkisráðherrann gerði svo grein fyrir hvernig viðræður ríkja 3. og 2.heimsins hefðu stundum borið árangur og styrkt bönd milli slíkra ríkja á jákvæðan hátt fyrir þróun framsækinnar hreyfingar. Ræðu Chiao Kuan-Hua var feikivel tekið af fulltrúum 3.heimsins.

Er greinilegt, að baráttan fyrir þjóðfrelsi, sjálfstæði og sósíalisma hefir eflst með þátttöku Kína í SÞ. Greining Kína á heimsástandinu er rétt og miðar að því að einangra og sigra voldugustu óvini alþýðunnar í fyrstu - Bandaríkin og Sovétríki endurskoðunarsinnanna - auðvaldsrisana tvo.



Öll kínverska alþýðan tekur þátt í að móta stefnuna - einnig stefnuna í utanríkispólitíkinni.

## ÞEGAR ÞJÓÐVILJINN ÞEGIR



Kjartan

þorir hann ekki að svara?

Þjóðviljinn berst skelegglega fyrir prentfrelsi, málfrelsi og skoðanafrelsi. Menn muna jú v-l málin og skammir Þjóðviljans útí Morgunblaðið fyrir að birta ekki eitt og annað framsækið efni. Varla er fréttnæmt þótt Þjóðviljinn hafi aldrei birt eina einustu fréttatilkynningu Eik(m-l), því Eik (m-l) eru kommúnísk samtök. Þess kyns öfgar styðja þingsalaflokkar ekki. En um baráttufund í tilefni 45 ára ártíðar fyrirrennara Alþýðubandalagsins gegnir öðru máli. Þegar Þjóðviljinn birtir ekki fréttatilkynningu frá Eik(m-l) og KSML um þann fund, hlýtur forystumönnum hans að vera afar órótt. Enda verður enginn ættleri á borð við AB af engu. Skýringin hlýtur að vera fólgin í því að stéttasamvinnuherrar og endurskoðunarsinnar forystunnar óttast nýjan kommúnistaflokk meir en annað. Þar sjá þeir banamein endurskoðunarstefnunnar. Alþýðubandalagsforystan getur ekki barist opinberlega og heiðarlega gegn marx-lenínistum. Hún kann sömu laumubrögð og Moggi þegar mikið liggur á. Þá er alls kyns frelsi lítils virði, en þögnin best. Eik (m-l) hefur sent fréttastjóra Þjóðviljans opið bréf og krafist svara.

# SKP | KYNNING á norrænum systursamtökum EIK(m-l)

## SVERIGES KOMMUNISTISKA PARTI SKP

### TILDRÖG

Eins og annars staðar í Evrópu dró mjög úr baráttu vinnandi alþýðu á 6. tug aldarinnar í Svíþjóð. Þáverandi "kommúnistaflokkur" Svíþjóðar var orðinn endurskoðunarstefnunni og þingsalabaráttunni að bráð eins og Sósíalistaflokkurinn hér á Íslandi. Sænskir kratar, er hjálpuðu atvinnurekendum við að reisa gervi-velferðarríkið Svíþjóð, ráku slíka stéttasamvinnustefnu að allar tilraunir til baráttu verkalýðshreyfingarinnar voru kæfðar í skrifræði og svikamyllu manna eins og Palme o.fl.

Á þessum tímum birtist aukin róttækni aðallega í andheimsvaldasinnuðu starfi, sérstaklega stuðningsstarfi við alþýðu Víetnam. En árið 1969 hófst verkfallsalda og ný stéttarvakning í landinu. Síðan þá hefur svo barátta verkalýðs og vinnandi alþýðu aukist jafnt og þétt samfara hertu arðráni, aukinni einokun og versnandi lífskjörum í Svíþjóð. Í þessum hræringum og pólitískri vitund vinnandi fólks á hreyfing sænskra marxlenínista sér rætur.

Kommunistisk forbund (marxist-leninisterna) - KFML var stofnað 1967. Að samtökunum stóðu m.a. fyrrverandi félagar VPK (sænska Alþýðubandalagið, "kommúnistaflokkurinn", var lagður niður) er sögðu skilið við endurskoðunarstefnu flokksins. Flokksbygging og endurnýjun faglegrar baráttu voru meðal stefnuskrármarka KFML. Fyrst í stað voru samtökin náms- og áróðurssamtök - en þegar árin 1969-1972 haslaði KFML sér baráttuvöll í stéttabaráttunni - sums staðar í broddi fylkingar. Í baráttunni gegn einokunarauðvaldinu og heimsvaldastefnunni beitti KFML samfylkingaraðferðinni. Nokkur stefnumið:

- endurreisn baráttustefnu og stéttarfélaganna í verkalýðsmálum.
- barátta gegn endurskoðunarstefnu VPK með sívaxandi ósáttfýsi.
- baráttan gegn innlimun Svíþjóðar í Efnahagsbandalagið.
- stuðningsstarfið fyrir alþýðu 3.ja heimsins.
- myndun baráttufylkinga gegn húsaleiguokri, söluskatti á mat og fyrir alþýðumenningu.

Í kosningunum 1970 fékk KFML o,4% atkvæða og leit á þátttöku sína sem liðskönnun, Höfuðatriði í starfi.

KFML reyndist rétt allt frá byrjun. En innan samtakanna áttust við hin öreigasinnaða stefna og borgaraleg eða smáborgaraleg hentistefna - eins og ávallt er í kommúnískum samtökum. Í kjölfar skoðanabaráttunar í KFML fylgdu úrsagnir félaga, jafnvel heilla hópa. Þeirra stærstur var hópur "vinstri" hentistefnumanna. Helstu stefnumið þeirra voru fólgin í baráttu gegn samfylkingaraðferðinni, gegn endurreisn stéttarfélaga, gegn samfylkingu verkalýðs og t.d. smærri bænda o.s. frv. Klofningsmennirnir (stundum kallaðir hálftrotskíistar) stofnuðu KFML(r) - og geta lesendur fræðst um stefnu þeirra með því að athuga stefnu KSML hér á Íslandi á árunum 1971-1974. KFML stofnaði SKP í árslok 1972. Var þá tekið lokaskrefið við að þróa KFML yfir í baráttusamtök - og hafin barátta fyrir því að reisa skipulagsbundið forystuafl öreigastéttarinnar og sænskrar alþýðu er teygðu forystu sína yfir öll baráttusvið hennar.

### SKP í dag

SKP hefur nú mjög treyst i innviði sína og vaxið ótrúlega hratt að afli og félagatölu. Hann hefur áunnið sér stöðu sem kommúnískur flokkur í augum flest allra Svía. Meðal tugþúsunda fylgismanna hans fjölgar verkafólki, enda flokkurinn í fararbroddi framsækinnar baráttu. Baráttumarkmið og stefna SKP er lítt breytt frá því er var meðan KFML starfaði, aðeins hnitmiðaðri og altækari.

EIK(m-l) og SKP styðja hvort annað og hafa átt góð samskipti á grundvelli alþjóðahyggju öreiganna. Í baráttu fyrir 200 mílna landhelgi á íslensk alþýða dyggan stuðning í SKP einum sænskra stjórnmálaflokka.

## GNISTAN

### Skipulögð rányrkja Sovétríkjanna. Plága fyrir sænska sjómenn !

Í nóvember skýrði Gnistan frá því að sóvéskur togari hefði verið tekinn og færður til hafnar í Svíþjóð fyrir ólöglegar veiðar í sænskri landhelgi.

Gnistan segir, að togarinn hafi haft troll með 17 mm. möskvum. Það minnsta, sem er leyft í Svíþjóð eru 30 mm. Sovéskir togarar koma með reglulegu millibili upp að strönd Svíþjóðar til að veiða. Þeir hafa það háttarlag á veiðunum, að þeir sigla meðfram allri strönd Eystrasaltsins og hreinskrapa botninn. Sænskir sjómenn segja, að botninn sé eins og hann hafi verið "ryksugaður" eftir að sovésku togararnir höfðu verið í heimsókn. Sovét vill ekki semja því þeir vilja ekki að veiðiskip annarra landa fái að veiða við strendur Sovétríkjanna. Þetta sýnir, að Sovétríkin stunda rányrkju á öllum höfum í krafti drottnunarstöðu sinnar.

Póstfang SKP er:
SVERIGES KOMMUNISTISKA PARTI
BOX 3124
103 62 Stockholm 3
Sverige.

Gnistan (Neisti) er aðalmálgagn SKP og kemur út vikulega í 17-18 þúsund eintökum.
Fræðilega málgagn SKP heitir Marxistisk Forum, en auk þess gefa Röd Ungdom (Rauð æska) út eigið blað "Rödluvan", stúdentasamtökin gefa út Clarté.






## NÝTT! GEGN TROTSKISMA OG "VINSTRI"-RÓTTÆKNI!

Nýlega er kominn út bæklingurinn "Gegn trotskisma og "vinstri" róttækni.". Bæklingurinn er annar í röð hefta OKTÓBER-FORLAGSINS í heftaflokknum "AF BLÖÐUM ALÞÝÐUBARÁTTUNNAR." Bæklingurinn fjallar um trotskismann, sem kenndur er við Leon Trotsky upphafsmann hans. Í bæklingnum reynslu trotskismans á alþjóðavettvangi, er svikaherferð trotskismans rakin, fjallað er um starfsemi trotskista í byltingarbaráttunni í Kína, þjóðfrelsisbaráttunni í Víetnam, Spánarstríðinu o.fl. Nú þegar barátta alþýðunnar um allan heim vex og stéttaafstæður skerpast með vax- fá trotskistar allskonar og "vinstri"hentistefnuhreyfingar byr undir vængi. "Gegn trotskisma og "vinstri" róttækni" sýnir hvernig þetta hefur gerst áður fyrr og hvaða afleiðingar það hefur haft í för með sér fyrir baráttu alþýðunnar. "Gegn trotskisma og "vinstri" róttækni" er nauðsynlegur bæklingur fyrir alla baráttufúsa alþýðusinna. Bæklingurinn fæst í OKTÓBER búðinni SKÓLASTRÆTI 3b Reykjavík, Bókabúðinni Rauða Stjarnan Lindargötu, Máli og Menningu, Bóksölu Stúdenta og í fleiri bókabúðum.

Bæklingurinn kostar 200 kr.

## RAUÐLIÐINN

RAUÐLIÐINN Nr.2. 1975 er kominn út. Í þessu hefti er m.a. fjallað um "Kosningaréttinn í auðvaldsþjóðfélagi" eftir Bo Gustafsson. Þá er stórgrein sem ber heitið "Endurskoðunarstefnanríkið og "ráðherrasósíalisminn"". Fjallar hún um störf og pólitískt skipbrot Alþýðubandalagsins. Þá má finna í RAUÐLIÐANUM upplýsingar um námsstarf EIK(m-l) og annað námsstarf. RAUÐLIÐINN er 32 bls. Ritstjóri er Magnús Snædal. RAUÐLIÐINN fæst í OKTÓBER-búðinni Skólastræti 3b. R.vík. og víðar þar sem efni OKTÓBER er til sölu. RAUÐLIÐINN kostar 100 krónur

# KREPPUTEIKN

## EINOKUNARHRINGIR SÆKJA Á

Sem dæmi um sjálfstæði og yfirdrottnunarstefnu íslensks auðvalds höfum við stundum nefnt einokun í efnahagslífi landsins. Einkenni eru m.a. samruni stórfyrirtækja og bankavalda, sem fæst með sameiginlegri stjórnun þessara stofnana. T.d. mætti nefna Flugleiðir og bankaráð ríkisbanka - sitja þar menn á tveimur valdastólum. Þegar kreppan herðist verður hringavaldið að herða arðrán sitt og auka umsvif til að mæta versnandi afkomu. Eitt augljósasta dæmið um þetta eru tilburðir Flugleiða h/f við að hindra samkeppni við sig. Fyrirtæki þetta sem er nátengt Eimskip h/f og fær alla ríkisfyrirgreiðslu sjálfkrafa, stendur nú í ströngu. Annarsvegar reynir það að kaupa undir sig hlutafélagið Vængi h/f og sömuleiðis Flugfélag Norðurlands, en hins vegar beitir það ríkisvaldinu fyrir sig við að koma braskaraveldi Sunnu og Air Viking fyrir kattarnef. Athyglisverðast er að stefna kratabrodda Alþýðubandalagsins í málinu fer nákvæmlega eftir áætlunum einokunarauðvaldsins.: Aukinn ríkisrekstur - styrkara auðvald. Þó svo að raunverulegt stefnumið flokksins sé falið undir orðum um "sparnað gegnum ríkisrekstur", "möguleiki á eftirliti verkalýðshreyfingarinnar gegnum ríkisvaldið" og aukinn "félagsrekstur" - má hvergi ámæla stéttasamvinnunni. Þetta sýnir aðeins að AB er borgaralegur flokkur með ítök í verkalýðshreyfingunni, ítök sem hann notar gegn verkalýðnum. Rétt stefna felst í beinni baráttu gegn ríkinu og einokunarauðvaldinu og sérhverri árás á verkalýð og vinnandi alþýðu.

---

## ATVINNULEYSI Á LANDSBYGGÐINNI

Milli 500-600 manns eru skráðir atvinnulausir um þessar mundir. Atvinnuleysingjar eru í raun allmiklu fleiri - m.a. vegna þess að sumir veigra sér við að skrá sig atvinnulausa. Á móti kemur að atvinnurekendur segja fólki upp bæði vegna samdráttar í rekstri og eins til að rýja fólk atvinnuleysisbótum.

Í Reykjavík er hvað algengast að "hagræðing" í rekstri og sameining verksmiðja (t.d. kexverksmiðjurnar Frón og Esja) valdi brottrekstri í kyrrþey - því ekki möglar stéttarfélagsforystan. Hún situr vellaunuð í stjórnum, nefndum og nefndanefndum.

Ástandið er alvarlegast úti á landi - t.d. á Vestfjörðum. Þar ræður mat stóratvinnurekenda á hvað er "hagkvæmt" (fyrir þá) og hvað ekki. Er látið viðgangast að eina frystihús þorps (svo sem á Bíldudal) er dregið á aðstoð eða þá að einkarekstri, sem tekur auðvitað ekki mið af afkomu vinnandi fólks, er hætt. Fólkið getur bara flutt suður til vinnu, enda markvisst stefnt að því að útvega hringunum ódýrt vinnuafl. Atvinnuleysið er afleiðing kreppunnar og stjórnleysis burgeisanna - meðan einn hópur gengur atvinnulaus, eru keyptir skuttogarar þar sem atvinna er næg o.s.frv..

Engin forysta er til fyrir baráttunni gegn atvinnuleysinu og kreppuráðstöfunum auðvaldsins. Svik verkalýðsforystunnar eru aldrei augljósari en þá.

REISIÐ MERKI STÉTTABARÁTTUNNAR!!!

---

## VERNDUM SJÁLFSÁKVÖRÐUNARRÉTTINN

Baráttan fyrir fiskveiðilögsögunni tekur á sig harðari mynd. Afstaða íslenska ríkisvaldsins og þess breska kallar samtímis á harðari afstöðu vinnandi alþýðu landsins.

Hvarvetna brennur hagsmunamál vinnandi fólks í huga þess. Krafan er: Einhliða útfærsla og barátta gegn rányrkjunni- fjöldabaráttuna vantar hins vegar. Orsökin er m.a. borgarleg afstaða landhelgisnefndarinnar, sem lokar allt starf að auðlindabaráttunni inni á þingi.

Án fjöldabaráttu vinnandi alþýðu er ljóst að breska heimsveldið verður ofaná. Innrás NATO í fisveiðilögsöguna og innrás Bretlands í landhelgina við Seyðisfjörð ásamt lúpuleg-um viðbrögðum burgeisanna sýna hvert stefnir. Samkomulagið við V-þýska útgerð sýnir það einnig.

Hvað gerir hið "sósíalíska" Alþýðubandalag ?? Rífst á þingi og kallar á samstöðu "þjóðarinnar" - Geirs, verkamannsins, sjómannsins, bóndans, Lúðvíks og alþýðukvenna. Tilraun til að vekja baráttu og slást fyrir úrsögn úr NATO eru krötunum ofraun, nú sem áður.

Mörgum sýnist langsótt að tengja baráttuna um auðlindir landsins við sjálfsákvörðunarrétt Íslands. Róttækt fólk heldur gjarnan að þessi réttur sé ekki til og baráttan fyrir 200 mílna lögsögu sé stuðningur við auðvaldið. En öll andstaða gegn varðveislu sjálfsákvörðunarréttarins er röng.

Sjálfsákvörðunarréttur þjóðar (stéttskiptrar) er einfaldlega réttur til pólitísks sjálfstæðis og ríkjamyndunar. Það er stéttabaráttan í landinu, sem ákvarðar hvernig réttinum er beitt. Sé hann skertur vegna erlendra ítaka og drottnunartilburða, hefur það ill áhrif.

Verkalýð og vinnandi alþýðu er nauðsyn að rétturinn sé sem mestur, einmitt vegna þessa - allir sigrar hennar eru auðsóttari í sjálfræðu smáríki, en undir "verndarvæng" NATO, Efnahagsbandalagsins, Sovétríkjanna o.s.frv. Möguleikar til sjálfbjarga þjóðfélags í framtíð eru líka meiri en ella. Vegna alls þessa er landhelgismálið skylt sjálfsákvörðunarréttinum.

Og augljóslega er varðveisla hans liður í baráttu gegn yfirdrottnun stórveldа. 200 mílna landhelgi takmarkar umsvif þeirra allra er úrsögn úr NATO fylgir.

En minnumst þess að borgararnir verja ekki sjálfsákvörðunarréttinn. Hann nota þeir til að versla með. Fyrir fiskveiðisamningana, veitingu aðstöðu handa NATO og leyfi til erlendra fjárfestinga aflar ríkið og auðvaldið sér hlunninda erlendis. Þjóðleg og framsækin öfl eru því vinnandi alþýða og þá fyrst og fremst verkalýðurinn og öreigarnir. Kjörorðin eru:

- Til baráttu fyrir varðveislu sjálfsákvörðunarréttarins !
- Enga samninga - barátta gegn innlendri og erlendri rányrkju!
- Enga erlenda stóriðju!
- Herinn burt - Ísland úr NATO!
- Gegn drottnunarvaldi afturhalds Sovétríkjanna!



---

## ER MUNUR Á---frh af bls 1

tvær(eða fleiri) stefnur, sú borgaralega/smáborgaralega og sú kommúníska. Hér er um að ræða samtök þar sem rétt stefna vinnur á. Sigur marx-lenínismans er ekki fenginn fyrr en samtökin hafa tekið upp nýjan grundvöll og gert upp í heild við hinn fyrri. Sama væri uppá teningnum ef samtök væru að verða endurskoðunarstefnu að bráð.

Við þetta sætta KSML sig ekk og telja að KSML hafi m.a. verið marx-lenínísk alla tíð vegna þess að uppgjör hófst! KSML verða að viðurkenna, til þess að nálgast enn meir marx-lenínismann, að samtök með alranga baráttustefnu og ranga afstöðu í stökum aðalatriðum marx-lenínismans geta ekki verið kommúnísk. EIK(m-l) hefur ávallt, í höfu atriðum, stutt marx-lenínísk sóknaröfl KSML í orði og verl Ef við lýstum því hins vegar yfir að KSML væru nú marx-lenínísk, væri það vatn á myllu "vinstri"róttæklinga og skaðlegt marx-lenínistum.

### VARÐANDI EIK(m-l)

Samtökin hafa að eigin mat ekki gengið í berhögg við marx-lenínismann og haft rétta baráttustefnu í aðalatriðum.

Minniháttar villur er verið að leiðrétta og þó stéttgreining sé enn ónákvæm er það ekkert höfuðatriði, því afstaða EIK(m-l) til einokunarauðvalds, öreiga, verkalýðs og vinnandi alþýðu er rétt í öllum aðalatriðum. Um uppgjör er því ekki að ræða.

Af þessu drögum við þær ályktanir að EIK(m-l) séu marx-lenínísk samtök. Mat KSML á EIK(m-l) er reist á röngum forsendum, því samkvæmt þeim víkja EIK(m-l) frá marx-lenínismanum en hafa rétta baráttulínu.

- Slík samtök hljóta að vera fágæt.

### LOKAORÐ

Ólík afstaða samtakanna hvorra til annarra er eðlileg. Af okkar hálfu er ekki um sjálfbirgingshátt að ræða heldur fastheldni við eina grundvallarreglu marx-lenínismans: Sjálfsgagnrýni og baráttu á milli andstæðra skoðana.

Afstaða okkar til KSML krefst þess að KSML geri upp við villur sínar með heildargrundvelli, sem fyrst enda merki um afturför ef samtökin standa gegn slíku. Æ fleiri aðalatriði sýnast rétt hjá KSML ef dæmt er eftir málgagninu, en endahnútinn vantar.



# Samstaða bænda og öreiga



Það er þekkt bragð hjá borgurunum hér á landi að reyna að etja saman bændum og öreigum. Einokunarauðvaldið skipuleggur niðurgreiðslur á landbúnaðarafurðum og lætur líta svo út að skattfé alþýðunnar renni beint til bænda. En það er aðeins blekkingarvefur auðvaldsins. Niðurgreiðslur renna að mestum hluta til milliliða sem eru hluti af einokunarauðvaldinu. En það er önnur ástæða að baki því að einokunarauðvaldið stendur fyrir niðurgreiðslum á landbúnaðarvörum. Þær eru nauðsynja vörur og ef niðurgreiðslur af þeim væru afnumdar hækka þær auðvitað mikið og rýra kaupgetu alþýðunnar til kaupa á óþarfari vörum svo sem stórgróðavörum sem iðnaðarauðvald framleiðir og verslunarauðvald selur og flytur inn. Sameiginleg lausn öreiga og bænda er því kauphækkun launafólks sem vitanlega yrði tekin af gróða auðvaldsins. Þessi kauphækkun myndi gera öreigum auðveldara að greiða bændum nær raungildi fyrir framleiðslu þeirra.

Borgarastéttin arðrænir bændur svipað og öreiga. Vinnutími bænda við framleiðsluna er með því lengsta sem þekkist. Síðan kaupir SÍS auðvaldið framleiðslu þeirra á smańarverði og leggur ríflega ofan á hana en selur bændum áhöld, vélar og aðrar vörur til búsins með stórgróða. Að vísu koma hér fleiri verslunarfyrirtæki við sögu en ekkert þeirra hefur einokunaraðstöðu í líkingu við SÍS.

Einokunarauðvaldið stefnir markvisst að útrýmingu smábænda. Það sést á því að bændum fer fækkandi vegna lélegrar lífsafkomu og sáralítillar félagslegrar þjónustu svo sem mikilla fjarlægða í skóla, óöruggrar læknisþjónustu og slæmra samgangna. Þeir smábændur sem þrauka neyðast til að vera varavinnuafl einkum í sláturhúsum, frystihúsum, við samgöngur og byggingarframkvæmdir. 15%-25% tekna bænda koma úr þessum atvinnugreinum. Þó að bændur teljist smáborgarar vegna eignar sinna á jörðum og atvinnutækjum eru samt smábændur og bændur með meðalstór bú einkum þeir sem stunda verkamannavinnu jafnhliða bústörfum mjög nánir og traustir bandamenn öreiganna í baráttu þessara tveggja stétta gegn auðvaldinu. Hins vegar tilheyra örfáir stórbændur, sem oft eru á mála hjá auðvaldinu (á Alþingi eða formaður Stéttarsambands bænda) borgarastéttinni. Því má ljóst vera að ef baráttuaðferð kommúnista er rétt, taka bændur afstöðu með öreigunum í valdatöku þeirra, enda hafa bændur (eins og öreigar) hlutlægrahagsmuna að gæta af afnámi arðráns auðvalds þjóðfélagsins og uppbyggingu sósíalismans.

# Um nýafstaðna kjaramálaráðstefnu BSV

Baráttusamtök verkafólks héldu kjaramálaráðstefnu um seinustu mánaðarmót. Þessi samtök eru nýstofnuð og óþekkt að mestu, og því nauðsynlegt að skýra markmið þeirra og uppbyggingu. Höfuðtakmark með stofnun samtakanna er að endurreisa stéttarfélögin sem baráttutæki í kjarabaráttunni og innan þeirra eiga fyrst og fremst að starfa baráttusinnar úr verkalýðsfélögum. Vankantar eru enn margir á samtökunum.

s.s. vinnandi fólk í BSRB útilokað, skipulag samtakanna algerlega í lausu lofti, en gott skipulag er jú eitt skilyrði markviss og hnökralauss starfs. Ríkjandi er ofmat á baráttuvilja og vitund vinnandi fólks um stétt sína og stöðu. Þessir vankantar eru helsta orsökin fyrir því hversu starf samtakanna hefur verið veikburða og árangurssnautt. Annars vegar eru hugmyndir um laustengd andstöðulið úr hinum ýmsu stéttarfélögum, en fylgjendum þeirrar hugmyndar gleymdist að í dag er ekkert slíkt andstöðulið til skipulagt, en hins vegar, að þessi samtök séu vel skipulögð liðsmannasamtök með það að aðal markmiði að stofna andstöðulið í hinum einstöku stéttarfélögum, og að þau rækju í fyrstu alhliða baráttu gegn stéttasamvinnunni s.s. mótun kröfugerðar og baráttuaðferða, útgáfu dreifibréfa og/eða málgagns námsstarf fyrir félaga o.s.frv. Jafnframt yrði ákv. lágmarksskipting eftir stéttarfélögum, þar sem því verður viðkomið, að hver hópur taki fyrir sérmál eigin stéttarfélags.. Kjaramálaráðstefnan var hugsuð sem andsvar gegn ASÍ ráðstefnunni, að leggja upp markmið og leiðir fyrir baráttusinna í komandi kjaraátökum. Höfuðmálaflokkar voru til umræðu á ráðstefnunni þ.e. A/ kjarakröfur B/vinnumálalöggjöfin C/ ASÍ og samningsvaldið D/húsnæðis- og skattamál. A/Kjarakröfur: Í höfuðkröfunni, hinni beinu kaupkröfu var strax gerð slæm villa. Sett var fram sem krafa dagsins 120. þús. kr. lágmarkslaun fyrir dagvinnu. Vissulega á verkafólk fullan rétt á þessu kaupi og EIK(m-l) styður þessa kröfu af alhug sem stefnukröfu og félaga BSV skortir ekki rökin fyrir henni, en þessi krafa tekur ekki tillit til lítillar stéttarvitundar og mjög slæmrar baráttustöðu. Forsvarsmenn þessarar kröfu, viðurkenndu sumir hverjir að þessi krafa næðist alls ekki fram nú, þ.e. hún væri ekki árangurstrygg. Þeir viðurkenna því ekki nauðsyn baráttureynslu fyrir vinnandi fólk, því fólk fylkir sér ekki um óraunhæfar kröfur. Þessi krafa þjónar ekki fjöldanum. Gegn þessari kröfu teljum við rétt að setja fram: 85.000 kr. lágmarkslaun, sem þýðir að sami kaupmáttur náist og eftir febrúarsamningana ´74 jafnframt því sem tveir lægstu taxtarnir verði felldir niður, (3. og 4. taxti Dagsbrúnar og taxtar annarra stéttarfélaga í samræmi við það). Aðarar kjarakröfur voru: Fullar vísitölubætur á laun; þær greiðist mánaðarlega: - Gegn verðbólgu og kjararánspólitík ríkis og atvinnurekenda. Jafnrétti kynja til starfs og launa. Jafnframt voru settar fram eftirfarandi kröfur: a) Gegn fyrirhugaðri endurskoðun vinnulöggjafarinnar, sem á að stórskerða og sumpart koma í veg fyrir raunverulegan samnings- og verkfallsréttinn. b) Byggðar verði ódýrar leiguíbúðir og ný húsaleigulög verði sétt, sem tryggi betur rétt leigjenda. c) Burt með söluskatt af nauðsynjavörum-skattlaus þurftarlaun. d) samningana í félögin, en ekki til ASÍ forkólfanna. Þessar aðrar kröfur eru góðra gjalda verðar, sumar hverjar byggja þó vart á nægilega traustum grunni sökum upplýsingaskorts félaga BSV. T.a.m. treystu menn sér ekki til að vinna upp ályktun um jafn brýnt mál og lífeyrissjóðina, af áðurgreindum orsökum. Því miður kom ráðstefnan ekki fram sem neitt andsvar gegn stéttasamvinnunni. BSV. verða ekkert andsvar, fyrr en skipulagið hefur verið byggt og sigrast á "vinstri" villunum. Sjálf ráðstefnan bar mjög keim af þessu og auk þess sem sjálfsagt er afleiðing af þessu, skipulagsleysi á ráðstefnunni og áhugaleysi meðlima sjálfra.

## PÖNTUNARLISTI

PÖNTUN TIL OKTÓBER-FORLAGSINS
Pósthólf 541 Akureyri.

Frá_______________

Heima_

Ég vil panta eftirfarandi útgáfuefni gegn:
póstkröfu/ /
innborgun á gíróreikning OKTÓBER-FORLAGSINS nr. 97188 / /




1. Ályktanir og samþykktir stofnþings EIK(m-l) kr.100.-
2. Ályktanir fyrsta sameiginlega þings norrænna marx-lenínista..................kr.200.-
3. Baráttuleið alþýðunnar(stefnuskrá EIK(m-l)..kr.400.-
4. Afstaðan til Stalín.........................kr.200.-
5. Fangelsisljóð Hó Chí Mính...................kr.650.-
7. Gegn trotskisma og "vinstri"róttækni........kr.200.-
8. Rauðliðinn (1. og 2.tbl.1975)...............kr.100.-

VERKALÝÐSBLAÐIÐ

# Fyrir hverja eru S.V.R.

Í þessu tbl. af Verkalýðsblaðinu og væntanlega næstu munu birtast greinar um S.V.R. og viðtöl við vagnstjóra hjá þeirri stofnun. Samgöngumál í Reykjavík eru að verða til bölvunar og er brýn þörf á að hefja alvarlega umræðu og breytingu þar á.

Síðan breytingarnar voru gerðar á leiðakerfi S.V.R. hefur oft borið á kvörtunum almennings yfir lélegri þjónustu. Kvartanir hafa auðvitað aðallega bitnað á vagnstjórunum, sem í reynd hafa enga möguleika til að hafa áhrif á stjórnun og skipulag S.V.R. enn sem komið er. Það er einræðisklíka borgarstjórnar sem öllu ræður um S.V.R. Einkum hefur fækkun ferða á kvöldin komið illa niður á fólki ásamt ýmislegu öðru, sem bæði kemur niður á vagnstjórum og farþegum svo sem útbúnaður vagnanna á veturna þegar illfært er vegna snjóa. Kl. 7 á kvöldin breytist tímaáætlun vagnanna. Ferðir verða strjálar og illa skipulagðar um hina ýmsu bæjarhluta. Oft þarf fólk að bíða upp undir hálftíma á Hlemmi eða Lækjartorgi eftir þeim vagni sem hentar því og þá er skiptimiðinn jafnvel útrunninn!!! Verst kemur þó þessi breytta tímaáætlun niður á því verkafólki sem vinnur til kl.7 og það er ekki lítill hluti fólks sem vinnur svo lengi. Þá má minnast á miðasölu S.V.R. sem er hreint tilræði við pyngju fólks. Miðar eru nú seldir á stórum kortum eingöngu á Hlemmi og Lækjartorgi á búðartíma. Vagnstjórar selja eingöngu 300 kr. kort í vögnunum, sem í raun hafa helmingi meiri útgjöld í för með sér, því aðeins 8 miðar eru á slíkum kortum. Að vísu báðust vagnstjórar sjálfir undan ábyrgð á sölu stóru kortanna, þar eð þeir treystu sér ekki til að hafa mikla peninga undir höndum í akstri, en væri samt ekki hægt að hafa þau til sölu víðar um bæinn, þannig að fólk sem ekkert hefur að sækja á Hlemm og Lækjartorg gæti a.m.k. keypt kortin í sínu heimahverfi ? Margt fólk verður svo svekkt á þjónustu S.V.R. að það hugsar með sér að eina ráðið til að losna undan því stressi sem fylgir notkun S.V.R. sé það að fá sér einkabíl. Og



það er einmitt það sem Geir og Gunnar og allir hinir kapítalistarnir vilja að fólk geri. Og þá erum við komin að kjarna málsins.: FYRIR HVERJA ERU STRÆTISVAGNARNIR ? OG HVERJIR RÁÐA ÞESSU FÁRÁNLEGA KERFI ? Það eru ekki strætisvagnastjórar, heldur forstjóri S.V.R., sem hefur endalegt úrskurðarvald, en hann hefur sér til aðstoðar verkfræðiprófessor að nafni Einar Pálsson, sem skipuleggur breytingar á leiðakerfi til þess að minnka útgjöld og kostnað. En til hvers er verið að gera breytingar á leiðakerfinu, ef það hefur í för með sér minnkandi afnot almennings af vögnunum og þá minnkandi tekjumöguleika S.V.R. ???

Í stað þess að auka nauðsynlega þjónustu við fólk með almenningsvögnunum og um leið reynt að fá fólk til að notfæra sér þessa þjónustu, þá er farið aftan að hlutunum og það síðan kallaður sparnaður.

En hver er þessi einvaldur? Hann heitir Eiríkur Ásgeirsson, ekkert merkilegt nafn en þó má draga ýmsar ályktanir af því ef betur er að gáð. Hann er bróðir Gunnars Ásgeirssonar, en sá er formaður Bílgreinasambandsins, sem er hagsmunasamtök bílainnflytjenda. Hann er einnig aðaleigandi VELTIS h/f, sem selur S.V.R. Volvó vagnana. Geir Hallgrímsson forsætisráðherra er aðaleigandi RÆSIS h/f, sem selur S.V.R. Mercedes Benz vagnana.

Og þessir menn eru bundnir í fleiri en eitt hagsmunafélag, þeir hafa ákveðnum skyldum að gegna við hvern annan.

Já svona er nú það, því færri sem farþegar eru með strætó, þeim mun fleiri

Framhald á bls. 3.

# UPPHAF NÝRRAR SÓKNAR Í LANDHELGISMÁLINU

Fulltrúanefnd um landhelgismálið hefur nýlega verið stofnuð í Reykjavík. Í henni eiga eftirfarandi samtök fulltrúa: Reykjavíkurdeildir: EIK(m-l) KSML SUJ, FUF, ÆNSFV, ÆNABR. Þessi fulltrúanefnd hélt fund á Lækjartorgi 20. desember s.l., sem hófst kl. 3. Sakir mjög svo óheppilegs veðurs var fundurinn fremur fámennur(um 200-300 manns) og stóð reyndar til að fresta honum, þrátt fyrir mikinn undirbúning og auglýsingar. 3 höfuðkröfur voru lagðar upp á fundinum: Þær eru: GEGN ALLRI RÁNYRKJU, - TAFARLAUS STJÓRNMÁLASLIT VIÐ BRETA -ENDURSKOÐUN Á AÐILDINNI AÐ NATO.

Fundinum bárust fjölmargar stuðningsyfirlýsingar, sem verða afhentar forsætisráðherra og er enn hægt að senda nefndinni stuðningsyfirlýsingar. EIK(m-l) hefur áður haldið útifund um landhelgismálið á Lækjartorgi í sept. s.l. og hefur alltaf lagt áherslu á fjöldabaráttu í landhelgismálinu með stofnun landhelgisnefnda á vinnustöðum og í stéttarfélögum. Aðeins íslensk alþýða getur forðað fiskistofnunum frá gjöreyðingu, og aðeins með eigin baráttu. Fundurinn 20. desember er því skref fram á við - og hann verður að marka endalok undansláttar, en upphaf fjöldabaráttunnar. Fleiri aðgerðir, meiri skipulagning fleiri baráttufúsar hendur og útgáfustarf verður að fylgja í kjölfarið.

Fulltrúanefndin mun halda störfum áfram og marka stefnuna í þessu baráttumáli alþýðu.

GEGN INNLENDRI OG ERLENDRI RÁNYRKJU - ENGA SAMNINGA- ÍSLAND ÚR NATÓ - HERINN BURT!

# NÝJÁRSKVEÐJA

EININGARSAMTÖK KOMMÚNISTA (marx-lenínistar) og VERKALÝÐSBLAÐIÐ senda verkalýð og vinnandi fólki árnaðaróskir og baráttukveðjur. Árið 1975 var ár harðnandi stéttabaráttu og eflingar kommúnískrar hreyfingar um öll lönd. Yfir árinu 1976 hvílir annarsvegar skuggi vaxandi stríðshættu risaveldanna og hinsvegar skín bjart ljós sívaxandi frelsisbaráttu alþýðunnar um allan heim. Ísland er engin undantekning. Stöðugt harkalegri yfirgangur ríkisvaldsins og atvinnurekenda kallar á harðnandi stéttabaráttu. Alger svik verkalýðsforystunnar kalla á baráttu verkalýðs og vinnandi fólks gegn stéttasamvinnustefnu þeirra. Einokunarauðvaldið selur sjálfsákvörðunarrétt landsins í hendur útlendingum og fær við það aðstoð frá hjálparhellunum í Alþýðubandalaginu og Alþýðuflokknum. Þeir flokkar eru borgaralegir verkalýðsflokkar, sem aðeins eiga skilið algera fordæmingu vinnandi fólks.

LIFI BARÁTTA VERKALÝÐS OG VINNANDI ALÞÝÐU GEGN EINOKUNARAUÐVALDINU OG LEIGUÞÝI ÞESS Í RÖÐUM ALÞÝÐUNNAR SJÁLFRAR. GLEÐILEGT NÝTT ÁR - NÝTT OG RAUTT ÁR.